Gísli Egilsson

# Sameiningin.

Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, DESEMBER 1892. Nr. 10.

## *JÓLASÁLMUR.*

Eptir *Brorson*, þýddur úr dönsku af síra V. B.

Ó, hvað má hugsa sekur
er hugsað fær til þess,
að himins herra tekur
sjer hjer á jörðu sess,
að lífsins ljósið sanna
og ljómi drottins skær
ei hjer í húsum manna
sjer hreysi lítið fær?

Ei gullin perla gleymist,
þótt glatist hún á braut;
og fagur gimsteinn geymist
í gullið konungs-skraut;
menn kasta' ei björtu blómi
á bálið sorpi með; —
en himins ljós og ljómi
hjer liggur hálms á beð.

Hví var í hárri höllu
ei húsrúm búið þjer,
sem einn átt ráð á öllu
og allt gazt kosið þjer?
Hví ljeztu' ei ljósum prýddan
fram líða konungs-sal,

með gullbeð, guðvef skrýddan,
og glitfrítt blómaval?

Hví ljeztu' ei ljóssins boga
um lykja þig sem tjald,
og stjörnulampa loga,
fyrst ljóss þú hafðir vald?
Hví ljeztu' ei ljóssins skara,
er ljómaði' yfir hjörð,
til hússins helga fara
og halda tignarvörð?

Sjer holu hefur refur,
og himins fuglar skjól;
öll skepnan skýli hefur
og skríður sitt í ból.
Þú hvergi hvílast máttir,
ó, herra, Jesú minn;
þú ei svo mikið áttir
sem auma beðinn þinn.

Jeg vil þó víst upp ljúka,
minn vinur, fyrir þjer.
Jeg hef ei hvílu mjúka,
þó hvíl í brjósti mjer.
Þar ætíð hæli áttu,
þótt ærið sje það rýrt;
þar, herra, hvílast máttu,
þú hefur keypt það dýrt.

---

## *BLESSUÐ JÓLIN.*

*Eptir síra N. Steingrím Þorláksson.*

„Blessuð sólin!"—segja menn einatt, og það svo undur hlýlega, að auðheyrt er, að sólin hefur tilbúið sjer hlýjan stað í hjörtunum. „Blessuð jólin!"—segja menn og; hlýlega segja menn það líka, en enn þá meira en hlýlega; það liggur meira í röddinni. Það er eins og orðin fljúgi upp frá brjósti hins kristna manns, berist til hæða á vængjum ástarinnar og gleðinnar. Og

þytur þessara vængja heyrist svo í röddinni, þegar sagt er: *blessuð jólin!* Hvorttveggja,—bæði blessuð sólin og blessuð jólin!—er þannig sagt með svipaðri tilfinning. Og það er ekki svo undarlegt; því þótt orðin sjeu ekki málfræðislega skyld, þá eru þau í andlegu tilliti eða samkvæmt hugsjón hvors um sig náskyld. Það má líka taka það fram, að naumast eru þessi orðatiltæki—blessuð sólin! og blessuð jólin!—jafn-lík á nokkru öðru tungumáli eins og voru.

Náttúran hefur sitt eigið tungumál, tungumál táknanna. Á þeirri tungu talar guð, drottinn náttúrunnar, við manninn, drottin sköpunnar. Á bak við hinn ýmsa ytra virkilegleik náttúrunnar er nefnilega tilsvarandi ýmiskonar andlegur virkilegleikur hið innra. Og bendir drottinn á þann andlega virkilegleik með hinum tilsvarandi virkilegleik náttúrunnar hið ytra. Hinn sýnilegi virkilegleikur er tákn andlegs virkilegleika. Þannig bendir þá sól þessa sýnilega heims á sól hins ósýnilega andlega heims. Sól þessa heims vermir, vekur til náttúrlegs lífs, og veitir því lífi vöxt og viðgang. Hið sama gjörir sól hins andlega heims fyrir hið andlega líf. Hún vermir, vekur og veitir nýtt andlegt líf, heldur því við og gefur því vöxt. En nú eru blessuð jólin uppgönguhátíð hinnar blessuðu andlegu sólar. Þá minnast kristnir menn einmitt þess, að hún rann upp og með henni hinn nýi dagur, sem ekki þekkir sólarlag. Þeir lifa í birtu þessa dags, í ljósi þessarar sólar. Og eðlilega þykir þeim vænt um stundina, þá er hún rann upp og hinn dýrðlegi dagur hófst Eins og hinn náttúrlegi maður fagnar blessaðri sólinni eins fagnar hinn andlegi maður eðlilega *blessuðum jólunum.*

Dýpsta þráin, sem til er í brjósti mannsins, er löngunin eptir því að njóta kærleiks og veita öðrum kærleik. Er það svo eðlilegt, því sú þrá er ekkert annað en löngunin eptir því að vera *sannur maður.* Svo það verður þá í dýpsta skilningi hið sama og hin *sanna lífslöngun.* Því hvað er það að lifa? Það er að elska og vera elskaður. Stigbreyting lífsins er þá hið sama og stigbreyting kærleikans. Því sannari sem kærleikur sá er, sem maðurinn auðsýnir öðrum og þiggur af öðrum, því sannara verður líf það, er hann lifir. Alveg eins að því, er snertir hið gagnstæða. Því ósannari sem kærleikinn er, því ósannara verður lífið. Eða, svo jeg taki þetta ljósar fram: því fjær sem kærleik-

ur mannsins er hinum alsanna kærleik, því fjær verður líf hans hinu sanna lífi. Og því nær sem kærleikur hans er hinum alsanna kærleik, því nær verður líf hans hinu sanna lífi. Nú er guð hinn algóði kærleikurinn, hinn alsanni kærleikur. Sönn lífslöngun verður því löngunin eptir því að vera elskaður af guði og að elska hann. Og hið sanna líf verður þá um leið fólgið í því, að vera elskaður af honum og að elska hann.

En nú er jólaboðskapurinn boðskapur um kærleik guðs. Í þeim boðskap sínum til mannanna segir hann: Jeg elska yður. Jeg elska yður svo mjög, að jeg hef gefið yður eingetinn son minn, til þess að hver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur hafi eilíft líf. Kærleikur guðs,sem jólaboðskapurinn flytur mönnunum, lýtur þá ekki að stundlegri velferð mannsins, heldur að andlegri og eilífri velferð hans. Það er hinn endurleysandi kærleikur guðs, sem jólaboðskapurinn flytur mönnunum. Guð segir: Jeg elska yður með hinum endurleysandi kærleik mínum, jeg vil endurleysa yður, jeg vil leysa yður undan valdi syndarinnar. frelsa yður frá lífi syndarinnar. Jeg vil reisa á fætur aptur hið fallna mannkyn, taka yður í sátt við mig, koma yður í kærleikans samfjelag við mig, koma inn hjá yður hinu sanna kærleikslífi. Og allt þetta vil jeg gjöra fyrir þennan son minn elskulegan, sem fæddist í Betlehems-jötunni og sem jeg hef gefið yður til eilífrar frelsunar frá syndinni, dauðanum og djöflinum. Veitið honum viðtöku í trú. Þá veitið þjer mjer og mínum kærleik viðtöku, og munuð svo lifa.

Það var þessi frelsandi kærleikur guðs, sem gaf englunum tilefni til að syngja hinn fyrsta jólasöng. Og það er hinn sami kærleikur, sem þann dag í dag gefur hverjum kristnum manni tilefni til að fagna blessuðum jólunum og lætur gleðisöng jólanna lypta sjer upp frá hjarta hans, guði kærleikans til lofs og dýrðar.

Hugsum oss konu, sem ann einhverjum manni hugástum, og heyrir hann svo í fyrsta sinni segja við sig: „jeg elska þig!“ — mun henni þá ekki óðara verða rýmra um hjartað? og hvort mun þá ekki líka verða rýmra um sönginn í hjartanu? Eins er því varið með þá sál, sem þráir kærleik guðs. Þá er hún hugleiðir jólakveðju drottins síns, mun þá ekki verða rýmra um sönginn í hjartanu? Jólasöngurinn verður þá svarið hennar upp á jólakveðju drottins. Mun ekki líka brúðkaupsdagurinn

vera hinn mikli fagnaðardagur brúðarinnar? það er kærleikur brúðgumans, er hún eignast þá til fulls, sem gjörir daginn að hátíðisdegi hennar. Eins er það með jólin. þau eru fagnaðarhátíð kristins manns. Og það er kærleikskveðja drottins, sem gjörir daginn að fagnaðarhátíð hans; enda fullvissar hún hann um það, að guð elski hann; því hann hefur gefið hið dýrðlega teikn,—reifaða barnið í jötunni. það er kærleikurinn áþreifanlegur, kærleikurinn íklæddur holdi og blóði.

Ó, hve innilega talar guð um hinn endurleysandi kærleik sinn við mennina á jólunum! Sól rjettlætisins og kærleikans, sem þá upprann af hæðum, lætur hann tala til þess að lýsa mönnunum, er sitja í myrkri dauðans. Og tala lætur hann hina hlýju geisla hennar, sem stafa ekki skáhalt, heldur þráðbeint niður á oss mennina. Og með þessari brennheitu kærleikskveðju jólanna kallar hann á mennina út úr hinu dimma, kalda og kristlausa lífi og inn til lífsins, sem lifað er í kærleikans sameining við Jesúm Krist. Og þeim öllum, sem hugleiða, hvílík þessi jólakveðja hans er, og veita jólaboðskap hans viðtöku,—veitir hann hið sanna líf, sem í því er fólgið, að vita sig njóta elsku hins algóða guðs og elska hann svo aptur í staðinn.

það er því ekki neitt undarlegt, þótt kristinn maður segi *blessuð jólin* með einkennilega hlýjum hreim, þar sem jólaboðskapurinn með þeirri útskýring á honum, sem páska- og hvitasunnu-boðskapurinn gefur, er einmitt hið eina, sem fullnægja má dýpstu þrá mannshjartans, og þar sem enn fremur þessi blessaði boðskapur hefur fullnægt og fullnægir þessari þrá hjarta hans. Og svo minna blessuð jólin hann í hvert skipti á ný á þessa jólablessun hans, sem æðri er allri stundlegri blessun,—frumgróði blessunar þeirrar, er bíður hans, þegar hin eilífu jól renna upp „fyrir handan hafið“, þegar sól dags þess, sem ekki þekkir sólarlag, kemst í hádegisstað. Hið undarlega er, að hver kristinn maður skuli ekki segja af hjarta „blessuð jólin!“. Og hið sorglega er það, hve margir þeir eru, sem ekki þekkja blessuð jólin og engin blessuð jól eiga.

## *INNBLÁSTUR HEILAGRAR RITNINGAR.*

Síra Magnús Skaptasen hefur verið að ferðast suður um Dakota með fyrirlestur um innblástur heilagrar ritningar. Efni

fyrirlesturs þessa var að neita því, að guð hefði átt nokkurn meiri þátt í samning heilagrar ritningar heldur en hverrar annarrar bókar, sem vera skyldi. það væri langt frá því að vera guðsorð, það sem stæði í þeirri bók. Til þess að sýna fram á, að þessu væri þannig varið, voru dregin fram ýms dæmi úr gamla testamentinu,sem fyrirlesaranum þóttu guði algjörlega ósamboðin,eins og t. d. ýmislegt í löggjöf Mósesar, glíma Jakobs við guð, harðneskja Ísraelsmanna við heiðnu þjóðflokkana, sem bjuggu í Kanaanslandi, o. m. fl. En aldrei minnumst vjer þess, að hafa heyrt nokkurn menntaðan mann, hvað þá heldur prest, tala með jafnlitlum skilningi um þessi efni og gjört var í þetta sinn af síra M. það kom ekki fyrir í öllum þessum langa fyrirlestri ein einasta bending til hinna sögulegu skilyrða, sem heilög ritning,ekki síður en hver önnur bók, hlýtur að dæmast eptir. Enda kom það svo berlega í ljós, að síra M. var ekki um það hugað að skilja eða koma nokkrum öðrum í skilning um orð hinna heilögu höfunda, heldur virtist honum vera það eitt áhugamál, að tína saman sem flest dæmi til að sanna þá setning sína, að heilög ritning væri ekki guðs opinberaða orð. Með þessum fyrirlestri, eins og annars opt áður, gaf hann trúuðum mönnum sláandi sönnun fyrir því, að kenningin um eilífa fordæming er bibliunnar kenning. því hvað er það, sem komið hefur síra M. til að neita innblæstri heil. ritningar? Ekkert annað en kenningin um eilífa fordæming. Hann fann hana tekna fram í nýja testamentinu með svo skýrum og ótvíræðum orðum, að hann varð annaðhvort að trúa eilífri fordæming, og það vildi hann ekki, eða hann varð að neita því, að ritningin væri guðs-orð, og sá kosturinn þótti honum vænlegri. Í umræðunum, sem urðu á eptir fyrirlestrinum á Mountain, tók hann að sönnu lítinn þátt sjálfur; hann hafði þar annan mann til að tala fyrir sig. Samt gat hann þess sjálfur, til þess að taka af öll tvímæli, að sjer þætti nýja testamenntið enn þá ljótara en hið gamla,því þar fyndi hann kenninguna um eilífa glötun.—Sumir hafa haldið því fram, að það væri einungis eitt smáatriði, sem síra M. greindi á við kirkjuna um, eilíf fordæming og ekkert annað. Að öðru leyti kenndi hann eins og hver annar lúterskur prestur. Sjálfur hefur hann þegar fyrir löngu lagt fram ótal sannanir fyrir því, að þetta er algjörður misskilningur. En ef einhverjir skyldu enn vera í nokkrum

vafa með þetta og finna enn tilhneging hjá sjer til að afsaka fráfall síra M. frá kirkjunni og kristindóminum, ættu þeir að heyra þennan fyrirlestur. þeir mundu þá ganga úr skugga um, að ummæli „Sam." og kirkjufjelagsins hafa ekki verið út í bláinn. því fyrirlestur þessi um innblástur ritningarinnar er í raun og veru ekki annað en uppjetningr úr ritum *Ingersolls*, hins alræmda guðlastara; en mælskan, búningurinn, er líklega síra M. eiginleg eign; það væri að minnsta kosti rangt gjört að eigna Ingersoll hana. Fyrirlesturinn var eitt einasta stórt guðlast frá upphafi til enda.

„Fráfall síra M. er að mörgu leyti eitthvert hið hryggilegasta atvik í nútíðarsögu vorrar íslenzku kirkju. Að maður, sem gengið hefur í þjónustu kirkjunnar til að prjedika guðs orð og starfa að frelsi sálnanna, notar þetta háleita embætti sitt til að prjedika guðleysi og vantrú og leiða sálirnar út í villu og voða, er í sjálfu sjer eitthvert hið óttalegasta,sem fyrir kemur. þó er það með þetta eins og allt annað illt og óttalegt. Í drottins almáttugu hendi verður það ætíð á einhvern hátt til að styðja og efla hans heilögu áform. Dagsdaglega kemur það fram: þeir ætluðu að gjöra illt, en guð sneri því til góðs. þess vegna er það von vor, að drottinn láti eitthvað gott leiða einnig af þessu illa, syndsamlega atviki. Að ofurlitlu leyti virðist oss þetta þegar hafa komið fram. það var kenningin um eilífa fordæming, sem virðist hafa gefið tilefnið til fráfalls síra M. Út af þessari kenning hafa síðan orðið heilmiklar umræður. Í þeim umræðum höfum vjer leitazt við að taka þann þátt, er vjer höfum haft föng á. Vjer höfum leitazt við að sýna fram á, að kirkjan hefur ekki tekið kenning þessa upp hjá sjálfri sjer, heldur er hún kennd í ritningunni sjálfri af frelsaranum og postulum hans. Vjer höfum minnt sjálfa oss og aðra á það, að fyrir þessum myndugleika guðs-orðs bæri, að minnsta kosti kristnum mönnum, að beygja sig. Hálf-ótta-slegnir og hikandi lögðum vjer út í það, að verja þessa kenning guðs-orðs. En samvizka vor bauð oss það, myndugleiki guðs-orðs knúði oss til þess, þörf kirkju vorrar krafðist þess af oss. þessi kenning var komin „úr móð", vegna þess orði drottins hafði ekki verið nóg trúmennska sýnd. þegar þannig fer með einhverja kenning kirkjunnar, hver sem hún hún er, bendir það á syndina gegn guðs heilaga orði. Afleiðing-

in af því, sem vjer höfum hugsað og talað um þetta atriði guðsorðs, hefur nú fyrir sjálfa oss orðið sú, að vjer höfum lært að elska guðs-orð meira en áður og lært betur að skilja, hve ótakmörkuð trúmennska sú er, sem drottinn heimtar af manninum. Þar sem vjer í fyrstu fundum til þess, hve óþægilegt það er fyrir syndugan manninn að flytja fram þennan dóm guðs yfir syndinni, fundum til óttans fyrir hleypidómunum, sem þessi vörn mundi æsa upp í gegn oss, þá getum vjer nú fyrir guðs náð sagt, að allar þessar tilfinningar eru nú horfnar. Vjer tölum nú um þetta atriði opinberunarinnar eins og hvert annað, og freistingin til að minnast ekkert á það, til þess að meiða ekki tilfinningar neins, og til þess að gjöra guðs-orð „vinsælla“, er algjörlega horfin. Og fyrir það höfum vjer fyllstu ástæðu til að þakka drottni, sem þannig hefur styrkt trú vora með því að leiða oss út í þetta stríð. Hver afleiðingin af þessu stríði kunni nú að vera fyrir aðra, þorum vjer ekki að segja; vjer felum hana drottni. En eitt vitum vjer, og það er þetta: Menn hneykslast ekki nú eins og áður, þótt talað sje um eilífa fordæming. Vjer erum þess fullvissir, að orð vor hafa tekið hneykslið burt úr hjörtum margra meðal vor, sem annars láta sjer vera annt um kristindóminn. Og þann árangur höfum vjer einnig í fyllsta máta ástæðu til að þakka drottni vorum fyrir. Vantrúin á ekki næsta hægt með að komast inn á þann mann, sem slegið hefur því atriði trúarinnar föstu með sjálfum sjer, að til sje eilíf fordæming. En meðan þessu atriði er neitað, stendur hjarta mannsins opið fyrir heilum her af vantrúarhugsunum, sem brotizt geta inn, hvern dag sem vera skal, og tekið hugsunina herfangi.

En einmitt þennan sama árangur hljóta alvarlegar umræður um öll atriði kristindómsins að hafa. Það eru mörg næsta þýðingarmikil atriði, sem standa í nánu sambandi við þetta eina. Vjer viljum nefna: innblástur ritningarinnar, hlýðni kirkjunnar við guðs-orð, afstöðu kirkjunnar til játningarritanna, þýðing prestaeiðsins, o. s. frv. Allt þetta hefur verið nefnt á nafn í þeim umræðum, sem nú hafa átt sjer stað um eilífa fordæming, án þess gengið hafi verið inn á nokkurt þessara þýðingarmiklu atriða til hlítar. Í stað þess að láta nú umræðurnar falla niður, eins og bræður vorir heima á Íslandi virðast hafa mesta tillhneiging til, ættum vjer nú að halda þessum umræðum áfram í hinum kirkju-

legu tímaritum vorum eptir þeim föngum, sem vjer höfum til þess. Mundum vjer á þann hátt vinna hinni ísl. kirkju vorri hið mesta gagn. Því við þessar umræður mundi hugsun almennings vakna og íslenzk alþýða færi að hugsa meir um kristindóminn sinn en áður hefur átt sjer stað. Opinberar umræður um kristindóminn eru, eins og vjer munum áður hafa tekið fram, eitt af skilyrðunum fyrir nýju kirkjulegu lífi meðal þjóðar vorrar. Hin kirkjulegu tímarit vor ná ekki tilgangi sínum nema þær komizt á. Það mundi styrkja trú margra og efla kristindóminn. Að vísu má við því búast, að við þær umræður mundi koma fram heilmikið af vantrú jafnvel meðal ýmsra kirkjunnar manna. Sumir mundu, ef til vill, kalla þann árangur illan, en vjer fyllum ekki þeirra flokk. Þar sem vantrúin á annað borð er til, þarf hún að koma fram til þess að fá sinn dóm,—dóm guðs-orðs. Eitthvert hið mesta mein vort er það, að vantrúin hefur fengið að grafa um sig í kyrrþey, án þess að unnt hafi verið að bregða ljósi guðs-orðs yfir hana.

Innblástur heil. ritningar er eitt af grundvallaratriðum kristindómsins. Það er umfangsmikið og vandasamt, og til þess að tala um það, verður maður um fram allt að kynna sjer biblíuna sjálfa, lesa guðs-orð. En sá, sem lærir rjettilega að lesa guðs-orð, lærir um leið að beygja sig fyrir því. Og það er aðalatriðið. Síra M. og ýmsir, er tala líkt og hann, segjast trúa á guð, en ekki þann guð, sem biblían opinberar. Hvar hafa þeir fengið sína opinberun? Ekki í biblíunni, ekki heldur frá þeim guði, sem biblían talar um. Nei, þeir hafa hvergi fengið hana nema hjá sjálfum sjer; þeir hafa sjálfir skapað sjer sinn guð með þessari dæmalausu „skynsemi", sem þeir eru einlægt að tala um. En þegar sagt er um einhvern, að hann hafi sjálfur skapað sinn guð, er það hið sama og sagt væri, að maðurinn trýði á sjálfan sig. Vjer höfum allir meiri og minni fyrirlitning fyrir skurðgoðum heiðingjanna,—myndunum úr trje eða málmi, sem þeir falla fram fyrir. En goð, sem búin eru til af mönnum, er neita að trúa á guð biblíunnar, eru nákvæmlega jafn-göfug og skurðgoð heiðingjanna, en „guðsdýrkun" þeirra, er miklum mun ógöfugri en guðsdýrkun heiðingjanna.

## *KRISTIN SKÁLD.*

Ný-látin eru tvö einhver hin merkustu skáld, er orkt hafa á enska tungu á þessari öld. Annað þeirra er hinn frægi skáldkonungur Englands, *Alfred Tennyson*, en hitt eitt af hinum allra helztu skáldum þessa lands, *John Greenleaf Whittier*. Hinn fyrr nefndi hefur um langan tíma þótt bera af öllum enskum skáldum. Og síðan *Longfellow* ljezt hefur Whittier gamli, Kvekara-skáldið, í rauninni verið viðurkenndur skáldakonungur Ameríkumanna. Þeir voru næsta ólíkir þessir menn. Það mundi leiða oss of langt, ef vjer færum að gjöra grein fyrir skáldskap þeirra, enda er það langt frá ætlun vorri. Vjer vildum að eins benda á eitt, sem einkennir skáldskap þeirra. Þeir voru báðir kristnir menn. Og sú lífsskoðan, sem allur skáldskapur þeirra er borinn af, er lífsskoðun kristindómsins. Líf þeirra beggja hefur að allra dómi verið í fullkomnu samræmi við þessa lífsskoðan. Hvorugur þeirra áleit það nauðsynlegt, að varpa trú sinni fyrir borð, til þess með því móti að verða meira skáld. Hvorugur þeirra áleit það heldur skáldinu samboðnara að lifa illa, láta líf sitt vera uppreisn gegn siðferðislögmáli kristinna manna.

Vjer tökum þetta fram, af því svo opt er verið að slá því föstu af þeim óvinum vorrar kristnu trúar, sem mest tala, en minnst vita, að flestir miklir menn í andans heimi sjeu kristindóminum andstæðir. Líka hefur sú skoðun smeygt sjer inn meðal þjóðar vorrar, að þeir menn, er þegið hefðu hina göfugu skáldskapargáfu, væru yfir það hafnir að lúta hinu almenna siðferðislögmáli. Vjer Íslendingar erum öldungis ekki einir með þessa undarlegu skoðun. Hún er til vor komin, eins og svo margt annað, frá Dönum. En þeir hafa aptur drukkið þessa skoðun inn í sig frá Frökkum, þeirri þjóð, er lægst stendur í siðferðislegu tilliti af öllum hinum menntuðu þjóðum, — þar sem ljettúðin er mest, alvaran minnst. Skáldunum er þar allt leyfilegt. Almennings-meðvitundin afsakar þau optast nær, þótt þau gjöri sig hvað eptir annað sek í því, er hart mundi tekið á í lífi annarra manna. Það er eins og þau eigi að hafa eitthvert einkaleyfi á því að lifa í synd. Það liggur í augum uppi, hve skaðleg þessi skoðun er fyrir siðferðislega meðvitund þjóðarinnar.

Öllum kemur saman um, að enginn hæfilegleiki, sem mönnunum hefur verið gefinn, sje fegurri og göfugri en skáldskapargáfan. Skáldin hafa líka frá alda öðli verið álitin spámenn þjóðar sinnar, — þeir, sem umfram aðra dauðlega menn eiga að bera sannleikanum vitni; þeim er trúað til þess, opt og tíðum að minnsta kosti, að sjá sannleikann með berari augum en aðrir menn. Og svo skyldu þessir menn, sem yrkja um sannleikann og fegurðina, hafa leyfi til þess umfram aðra menn, að láta líf sitt vera í sem allra mestri mótsögn við orðin, sem þeir tala. Af öðrum er það heimtað, sjerstaklega kristnum mönnum, að lífernið sje í samræmi við kenninguna. Sú heimting er vissulega rjettlát. En vjer fáum ekki betur sjeð, en sama lögmálið sje í jöfnu gildi fyrir alla. Vjer fáum ekki betur sjeð en líf skáldanna ætti að vera líf í sannleika og fegurð, úr því kenning þeirra leggur mesta áherzlu á þetta tvennt. Miklir hæfilegleikar gefa engin einkarjettindi til að lifa í synd. Af þeim, sem mikið er gefið, verður líka mikið heimtað. Lífernið hefur líka stórkostleg áhrif á þann boðskap, sem einstaklingurinn hefur fengið köllun til að flytja. Ljótt líferni hefur opt dregið skáldskapinn ofan í saurinn. Hugsanirnar hafa saurgazt, yrkisefnið orðið ljótt. Þannig hafa skáldin opt orðið til þess að bera eitur ofan í sjálfar uppsprettulindir hins andlega lífs meðal þjóðanna. Það er næsta fátt, sem unnt er á að benda í sögu þjóðanna, er skaðvænlegri áhrifi hafi en einmitt þetta. Miklu af þeim skáldskap, einkum söguskáldskapnum, sem nú er mest lesinn, er þannig varið, að hann lyptir ekki siðferðis-meðvitundinni hærra, heldur dregur hana ofan í skarnið. Ekki á þetta sjer síst stað á Frakklandi meðal *realistanna*, er svo opt hefur verið talað um. En á Norðurlöndum hafa skáldin lengi verið fúsari á að fylgja frakkneskum fyrirmyndum í skáldskaparlegu tilliti en nokkrum öðrum. Vjer Íslendingar „dependerum af þeim dönsku“ í skáldskapnum ekki síður en öðru, og ósjaldan vill það þá til, að vjer erum fljótastir að taka það eptir, sem sízt skyldi.

Það eru aðrar bókmenntir, sem heilsusamlegri áhrif mundu hafa á íslenzkt þjóðerni og hugsunarhátt en hinar frakknesku og dönsku, þó margt sje þar auðvitað ágætt innan um. Sú þjóð, sem Íslendingar mundu mest græða á að eiga andleg viðskipti við, eru að vorri hyggju Englendingar. En fram að þessum síð-

ustu tímum hafa einmitt enskar bókmenntir verið hulinn fjársjóður fyrir oss. það hefur verið gengið fram hjá þeim til að seilast í annað miklu lakara. það, sem oss virðist enskar bókmenntir hafa fram yfir bókmenntir annarra þjóða, stendur einmitt í sambandi við siðferðismeðvitund hinnar ensku þjóðar. Brezkir rithöfundar og skáld hafa lifað hreinna lífi en títt hefur verið meðal bræðra þeirra á meginlandinu. Frá þessu eru svo sem að sjálfsögðu undantekningar. En siðferðismeðvitund ensku þjóðarinnar hefur einlægt verið svo sterk og heilbrigð, að hún hefur heimtað af skáldunum og rithöfundunum, leiðtogum lýðsins, að líf þeirra væri fagurt og hreint eins og hugsanirnar í bókum þeirra. það er líka ekki unnt að benda á neinar bókmenntir jafn-stórkostlegar og hinar ensku, sem um leið eru jafn-hreinar. Skáldin ensku hafa ekki verið skáld, spámenn þjóðar sinnar, einungis þær tiltölulega fáu stundir æfi sinnar, er þeir orktu kvæði sín, heldur hefur sú fullkomnunarhugmynd, sem fyrir þeim hefur vakað, verið í því fólgin, að allt líf skáldsins ætti að bera fegurðarinnar og sannleikans einkenni, ætti að vera eitt hetjukvæði, satt og fagurt frá upphafi til enda. þess vegna hafa ensku skáldin kveðið svo mikla heilbrigði inn í þjóðlíf sitt, af því þeir hafa sjálfir litið heilbrigðum augum á lífið, verið sjálfir andlega heilir, ósýktir af spilling og vondum lifnaði. Undantekningarnar þekkjum vjer, *Byron* á Englandi, *Poe* hjer í Ameríku. En undantekningar þessar hafa meira orðið til viðvörunar en eptirbreytni. Hin tvö ný-látnu skáld, *Tennyson* og *Whittier*, minna oss sterklega á þessa ensku hugmynd um skáldið. Bækurnar, sem eptir þá liggja, eru svo hreinar, að þar finnst engin saurug eða ljót hugmynd. En jafn-hreint og skáldskapur þeirra var lífið, sem þeir lifðu. Báðir voru þeir kristnir menn, og hvervetna komu þeir fram sem *Christian gentlemen*.

það væri óskandi, að hin vaxandi viðskipti Íslendinga við ensku þjóðina yrðu til þess, að þeir kynntust betur enskum bókmenntum. Ef skáldin íslenzku sæktu þangað fyrirmyndir sínar, höfum vjer þá trú, að þau mundu kveða meiri heilbrigði, meira starfsfjör, meiri dug og dáð inn í þjóðlíf vort en hingað til hefur átt sjer stað. Ef hin siðferðislega meðvitund þjóðar vorrar yrði nokkurn tíma eins sterk og heilbrigð og hinna ensku þjóða, mundu kröfurnar til skáldanna verða aðrar en þær nú eru.

En það, sem um fram allt annað gefur skáldskapnum siðferðislega þýðing fyrir þjóðirnar, er afstaða hans til kristindómsins. Sá skaldskapur, sem borinn er af lífsskoðun kristindómsins, hefur ætíð heillavænleg áhrif á þjóðlífið. Kristin skáld er eitt hið allra dýrðlegasta, sem nokkur þjóð getur bent á sem eign sína. Enn eru mörg hin helztu skáld heimsins kristin, og svo mun það ætíð verða. Og þegar vjer hryggir í anda heyrum sum hin yngri skáld vor syngja uppreisnarsönga gegn trúnni og kristindóminum, heyrum vjer um leið annan söng á tungumáli trúarinnar, svo sterkan og djarfmannlegan, að vjer vitum, að drottinn mun gefa honum sigur.

---

## *UMBURÐARLYNDI.*

„Norðurljósið“ færir oss þær fregnir, að hjeraðsfundur Eyfirðinga hafi verið haldinn 8. sept. á Akureyri. Blaðið segir enn fremur, að hjeraðsfundur þessi hafi „lýst í einu hljóði óánægju með árásir þær, er síra Matthías hefði orðið fyrir í blöðunum út af kenningu sinni. Safnaðarfundargjörðirnar báru það og með sjer, að söfnuðirnir væru ánægðir með trúarkenning hans.“

En hvað umburðarlyndið er orðið stórkostlegt í ísl. kirkjunni! Fyrst sver hver einasti prestur Íslands, um leið og hann tekur vígslu, þess dýran eið, „að hann skuli ekki einungis forðast og hata þá kenning, sem guðs-orði er gagnstæð, heldur einnig berjast á móti henni af öllum kröptum, og heldur láta úthella blóði sínu en aðhyllast ósanna og ofsafengna trúarlærdóma“. Þar næst kemur þessi maður út í lífið og fer að starfa sem prestur og kennimaður. Og þá álítur hann sig ekki framar en verkast vill bundinn af þessum eiði, sem hann hefur unnið, heldur fer, ef til vill, að kenna þvert á móti guðs-orði í einstökum atriðum, og þvert ofan í skýlaus ákvæði þeirra játningarrita, sem hann einnig með dýrum eiði hefur heitið að víkja ekki frá. Hann lætur sjer, ef til vill, sæma, að fara hinum óvirðulegustu orðum um játning kristilegrar kirkju, þvert ofan í eið sinn, og um þá menn, sem með trúmennsku standa við játning sína, kenning guðs orðs og prestaeiðinn. Ef farið er að finna að þessu opinberlega, og sýna fram á, að slíkt megi ekki eiga sjer stað, það sje blatt áfram hneykslanlegt athæfi, þá má maður búast við, að prestarnir í því hjeraði landsins gjöri yfirlýsing um það á næsta hjeraðsfundi, að slíkar aðfinningar sjeu óþolandi árásir, og að söfnuðirnir sjeu í fyllsta máta ánægðir með svona lagaða trúarkenning.

Þetta hafa eyfirzku prestarnir komið sjer saman um á hjeraðsfundinum á Akureyri í haust. Þessi yfirlýsing þeirra nær

auðvitað ekki að eins til vor hjer fyrir vestan, heldur og til biskupsins yfir Íslandi, sem setti ofan í við síra Mattías fyrir atferli hans, og til ritstjóra „Kirkjublaðsins", sem lýsti því yfir, að slíkt og þvílíkt gæti kirkjan öldungis ekki þolað. En hvað á nú annars til bragðs að taka? Heill hjeraðsfundur svo gott sem skrifar hjer undir með síra Mattíasi og gjörir þá yfirlýsing, að það hafi verið rangt, að finna að við hann, er hann í sterkustu orðum reis upp á móti trúarjátning sinnar eigin kirkju og skýlausri kenning drottins vors og frelsara Jesú Krists. Og þetta er gjört að alveg ný-afstaðinni biskups-visitazíu!

Hver áhrif er nú líklegt að svona löguð yfirlýsing hafi? Þau, að vantrúaðir menn geti bent á hana sem óræka sönnun fyrir þeirri staðhæfing sinni, að það sje eiginlega tómt leikspil, þetta með prestaeiðinn og trúarjátning kirkjunnar; prestarnir álíti hvorugt neitt bindandi. Þeir álíti sig hafa fullkomið frelsi til að gjöra almenningi kunnugt, að þeir skoði það eða það atriði trúarinnar sem „misskilning og vitleysu". Fer það ekki að verða nokkuð varhugavert, að mótmæla því svo sterklega, að þeir sjeu tiltölulega fáir á landinu, sem hafi þá trú, er kirkjan kennir, þegar heill hjeraðsfundur getur risið upp rjett á eptir og gjört aðra eins yfirlýsing og þetta? Það er alls ekki unnt að dyljast þess, að yfirlýsing þessi styður þá stefnu í kirkjunni, sem síra Mattías hefur gjörzt einskonar framsögumaður að. Og sú stefna er ekki annað en „fríþenkjara"-stefnan. Hjeraðsfundurinn gefur síra Mattíasi meðmæli sitt, lýsir yfir ánægju sinni með hann, en er sár-óánægður við þá, sem fundið hafa að uppátæki hans.—Við hverju skyldi nú mega búast næst? Svar: Yfirlýsing frá einhverjum öðrum hjeraðsfundi um það, hve dæmalaust hann sje vel ánægður með umburðarlyndið í Eyjafirði!

---

Síðan utan-þjóðkirkju-söfnuðurinn í Reyðarfirði myndaðist hjerna um árið hefur ekki neitt borið á hreyfing innan kirkjunnar heima á Íslandi í þá átt að losa sig í trúarlegu tilliti undan yfirráðum landstjórnarinnar—þangað til nú, að oss er að heiman flutt fregn sú, er hjer fer á eptir: Nokkrir menn í Seyðisfirði eða Dvergasteins-prestakalli, þar sem síra Björn Þorláksson er þjónandi prestur, leituðu á síðastliðnu sumri síra Lárusar Halldórssonar, sem, eins og flestum lesendum „Sam." mun kunnugt, hefur verið prestur utan-þjóðkirkju-manna í Reyðarfirði, og skoruðu á hann að flytja til Seyðisfjarðar og gjörast prestur fyrir söfnuð, er þeir hefðu fastlega í huga að stofna, og þá auðvitað um leið að rífa sig út úr þjóðkirkjunni. En því höfðu þeir tekið þessa ályktun, að ófriður all-mikill hefur um nokkur ár verið á milli nokkurs hluta safnaðarins þar í firðinum og sóknarprestsins, og var þetta fólk, fremur ástæðulítið,

búið að telja sjálfu sjer trú um, að það gæti með engu móti haft síra Björn fyrir prest. Þegar síra Lárus fjekk áminnzta áskorun, bauðst hann til að reyna að koma sáttum á milli prests og hins stríðanda safnaðarparts í Seyðisfirði; en þessir óánægðu Seyðfirðingar kvaðu allar sátta-tilraunir í máli þessu til ónýtis, enda var þá eigi frekar við það ráð átt. Ekki hefur heldur orðið af því, að síra Larus rjeðist til prestþjónustu meðal hinna óánægðu Seyðfirðinga. Lítur helzt út fyrir, að þessa menn skorti áræði til þess að mynda söfnuð utan þjóðkirkjunnar, hversu óánægðir sem þeir eru með hana og ákveðnir í því að nota ekki nein embættisverk þjóðkirkjuprestsins. Ekki virðast hin þjóðkirkjulegu yfirvöld landsins hafa treyst sjer að kippa þessu kirkjulega óstandi Seyðfirðinga í lag, þótt meðalgöngu þeirra hafi verið leitað af hlutaðeigendum. Og blöðin íslenzku hafa ekki með einu orði minnzt þessarar ljótu og leiðinlegu seyðfirzku kirkju-sundrungar, — jafnvel eigi „Kirkjublaðið“—, líklega af ótta fyrir að styggja annaðhvort hlutaðeiganda prest eða safnaðarbrotið, sem á móti honum hefur verið að berjast, ef þau ljetu opinberlega í ljósi álit sitt á deilumáli þessu.

Í Vallanes-sókn innan Suður-Múla-prófastdæmis hefur rjett nýlega náð sjer niðri enn þá greinilegri kirkjusundrung heldur en í Seyðisfirði. Þar hafa nefnilega um tuttugu búendur sagt sig úr lögum með söfnuði þjóðkirkjunnar og þegar án tafar myndað reglulegan utan-þjóðkirkju-söfnuð. Tilefni þessa uppátækis var megn óánægja meðal fólks í því byggðarlagi út af samslenging Þingmúla- og Hallormsstaðar-prestakalls við Vallanes, sem látin var komast á eptir að hið síðarnefnda prestakall losnaði fyrir skömmu. Í sameining prestakalla þessara er ekkert vit; þau eru svo víðáttumikil, að engum nema andstæðingum kirkjunnar hefði átt að geta komið til hugar, að fá þau sameinuð í eitt. Slík prestakalla-samslenging er hinn vísasti vegur til niðurdreps kirkjurækni og kirkjulegs lífs yfir höfuð. Þetta hefðu æðstu embættismenn kirkjunnar átt að sjá og þá auðvitað leggja sig alla fram til þess hið bráðasta á löggjafarinnar vegi að fá afnumið þessa vitlausu „brauða“-sameining, að ekki yrði hún til þess að koma stærra eða minna broti af safnaðarlýð hins umrædda prestakalls út úr þjóðkirkjunni, eins og nú svo undur eðlilega er fram komið. Það er vonanda, að kirkjustjórnin íslenzka fari nú að reyna að reisa rönd við öðru eins safnaða-samkrulli eins og því, sem hjer er um að ræða. Það hefur í þessu tilliti verið farið herfilega illa með söfnuðina í Fljótsdalshjeraði; þeir hafa nú helmingi færri presta en fyrir fáeinum áratugum og prestsþjónustu líka eðlilega helmingi minni. Það er ekki von, að kirkjulífið sje beisið, þar sem með söfnuði og prestaköll er farið eins og gjört hefur verið í þessu byggðarlagi

landsins. Ef úrganga hinna tuttugu fjölskyldna úr þjóðkirkjunni skyldi verða til þess að opna augu hinna kirkjulegu yfirvalda fyrir því, hve hættulegt annað eins safnaða-samkrull er eins og það, er tíðkazt hefur á hinum síðari áratugum í aðalhjeraði Austurlandsins, þá er yfir litlu að syrgja, öllu fremur ástæða til að vera þakklátur.

Æði-tími er síðan eitthvert dálítið brot af söfnuði Laufássprestakalls í Þingeyjarsýslu lenti fyrir utan þjóðkirkjuna. Virðast persónulegar ástæður aðallega hafa ráðið þeirri úrgöngu. Og er þá líklegt, að hlutaðeigendur berjist ekki með miklum áhuga fyrir frelsismáli utan-þjóðkirkju-manna.

J. Bj.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungur 1893.

1. lexía, sunnud. 1. Jan: Heimförin úr útlegðinni (Esra 1, 1—11).
2. lexía, sunnud. 8. Jan.: Musterið endurreist (Esra 3, 1—13).)
3. lexía, sunnud. 15. Jan.: Lýðurinn hughreystur (Hagg. 2, 1—9).
4. lexía, sunnud 22. Jan.: Jósúa æðsti prestur (Sak. 3, 1—10).
5. lexía, sunnud. 29. Jan.: Engill drottins (Sak. 4, 1—10).

---

*KAUPENDUR „SAM." Á ÍSLANDI borgi blaðið hr. Sigurði Kristjánssyni í Reykjavík.*

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétursson, N. Stgr. Þorlaksson, M. Palsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.